# Dæmi

til

## sann-kristiligs afgángs nokkurra, sem verid höfdu ádur verstu Heidíngjar.

---

Hér vil eg enn á ný (sjá Nr. 67), seigja lesendum mínum frá nokkrum merkiligum sönnum dæmum til umvendunar Heidíngja á þessum dögum, þvi eg veit ad slíkt gledur alla sann-gudhrædda, en má þéna þeim munnkristnu til stórrar uppörfunar til ad giörast alvörugéfnir í sínum kristindómi, svo ekki fari fyrir þeim, eins og Christur spádi (Matth. 8, 12. Luc. 13, 25—30), ad fyrir Gydíngum fara mundi, sem voru rikisins börn, nærst á undan oss; þvi ef Gud þyrmdi ekki þeim, sem þó voru náttúrligir kvistir á kyrkjunnar olíutré, mun hann ekki framar þyrma oss, sem erum þad ekki af náttúrunni, heldur innplantadir í þeirra stad, ef vér ekki breytum betur enn þeir, sem höfum þó enn betri upplýsíngu, enn þeir höfdu (Rómv. 11, 21). Dæmin er þá þessi:

1ta dæmi: Þegar Missións-presturinn Jóhn Vilhjálmur, ásamt ødrum hans mederfidurum, reisti med kristnibodid um eyar þær, sem liggja á sudurhveli vors hnattar, kom hann ad ey einni, sem Aimeo heitir, hvar ádur hafdi af hønum og ødrum

Kristni boðuð verið, og æði margir tekið við kristinni trú; og nær hann sagði þeim Kristnu þar frá, hvörsu furðanliga sér lukkast hefði kristniboðið þar á ýmsum eyum meðal Heiðingjanna, tók einn gamall og kránkur maður, sem Bara hét — hvör áður verið hafði grimmur Heiðingi — þannig til orða og mælti: "þó eg sé nú svo veikur, að eg valla géti talað, er hjarta mitt orðið þó svo glaðvært í mér, af fregnum þessum, að eg hlýt að tala þarum. O að eg hefði nú verið úngur maður, svo eg hefði gétað framkvæmt þetta verk ásamt yður, að snúa Heiðingjum til réttrar trúar, því það er eitt sannarligasta miskunar- og góðverk. Hann bað síðan Missións-prestana, sem þar nálægir voru, að leggja alla kappsmuni á, að snúa þeirrar og annara eyanna innbyggendum til kristiligrar trúar, og uppfræða nokkra svo af sínum landsmönnum, að þeir gjætu ogsvo orðið kristniboðarar meðal sinna eigin landsmanna; en sjúkdómur sá, er þennann mann þjáði, varð banasótt hans skömmu þar á eptir. Maður þessi var annars glediligt vitni þess, hvörs Evangelium orkað fær í mannsins sálu, þegar því er rúm gésið. Hann hafði áður, meðan fólkið heiðið var, verið höfðíngi einn meðal þess, og haft það embætti á hendi, að útvega manneskjur, til að fórnfæra þær guðunum. Einnsinni til dæmis sendi kóngurinn á Otaheite, sem Pómare hét, boð til hans, að hann tafarlaust skyldi útvega sér þvílíkt eitt offur. Bara komst svosem í ráðaleysi, að fullnægja strags þessari kóngsins skipun; og á meðan hann var að leita að manneskju einhvörri þartil í kríngum sig, er til fórnfæríngar þénað gjæti, fylgdi honum eptir lítill

pilltur, sem var bródir hans, og var ad kalla eptir hønum, af því hann vildi vera hjá hønum; en undir eins og hann vard pilltsins var, snéri hann sér vid, greip stein og kastadi í høfud hønum, drap svo barnid og sendi þad til kóngs Pómare, í stórri kørfu, til ad fórna því godunum. Þegar nú módir hans barmadi sér yfir dauda barnsins, og ásakadi hann fyrir grimd, ad hann skyldi þvílíkt mord framid hafa, og þad á sínum eigin bródur, beitti hann móti henni hørdum ordum, og sagdi: "Er ekki gudanna nád, kóngsins hylli og óhultleiki eigna vorra meira verdt, enn þessi litli narri, þó hann væri bródir minn? Skyldi eg ekki miklu heldur vilja missa hann, enn stjórnarrádin yfir voru héradi?"

Sú ønnur sýslan, sem þessi madur hafdi á hendi haft, medan hann var heidinn, var ad samansafna aptur því stridsfólki, sem fallist hafdi hugur, og þessvegna flúid burtu frá kónginum, þegar hønum á því leigid hafdi. Eptir þessu fólki var þessi madur Vara ad leita margeina nótt, og fór því hús úr húsi, og leitadist vid ad upptendra fólksins villta anda med því ad seigja því, ad hann sjálfur stædi í þvílíku sambandi vid einhvørn af gudunum, ad hann þóktist géta lofad því vissum sigri, í þeim edur þeim fyrirliggjandi bardaga. En þessi hinn sami ósættanligi og miskunarlausi Heidíngi gjørdist þó loksins audmjúkur og frómur kristinn madur, sem allt til daudadags gjørdi sinni Kristindóms-Játníngu sóma. Eptir þad hann hafdi skýrdur verid, var hann í mørg ár frómlyndur medlimur þess kristna safnadur. Af því sjón hans var mikid døpur, gat hann ekki lærdt ad

lesa, en hann hafdi samt vanid sig á, ad festa í minni mjøg margar Ritníngargreinir, og hafdi því svoleidis nád einni vidtgripandi og greiniligri þekkíngu þeirra veruligu Evangelii lærdóma. Presturinn Osmund vitjadi hans kostgjæfiliga á hans sóttarsæng, og fann hann mikid vel undirbúinn til daudans. Medal annars spurdi presturinn hann: hvort hann væri ekki hræddur ad deya? Hvar uppá hann svaradi hugbraustur og gladur: "O nei! ó nei! Bátur (míns lífs) er nú ad sønnu komin útá (daudans)-haf; seglín eru uppdreigin, og eg bíd ad eins byrjar. En eg hefi gódann lóssmann til ad vísa mér á góda høfn, og taka á móti mér. Høgum míns ytra og innra manns er ólíkt háttad. Látum þann ytri fúna og rotna, þartil Guds básóna kvedur vid (í skýum himins); en sála mín (minn innri madur) mun samt lypta sér strags upp, og fljúga ad hástól Jesú Christi." Og rétt strags eptir þetta andadist hann.

2ad dæmi, af ødrum Heidíngja, sem var á eyunni Rajatea. Þessi madur hét Me, hafdi verid stridsmadur, og var ordinn blindur. Hann hafdi ádur verid skélfiligur og til hrædslu øllum eyarinnar innbyggendum og þeirra nágrønnum; en í því sídarsta stridi, ádur enn Kristindómurinn innfærdist, hafdi hann feingid slag, af hvørju hann misti sjónina. En skømmu eptir þad kristnibodid var komid til Rajatea, tók Evangelíum ad verka á hjarta hans, svo hann vard einn af þeim fyrstu, sem kristna trú tóku. Hann sókti gudshús kostgjæfiliga; en alltíd vard einhvør gódur vinur hans ad fylgja hønum þángad,

og ad halda í annann enda á priki einu, medan hann sjálfur héldt í hinn á eptir. Þeim yppurstu konum þókti eingin vanvyrda ad veita honum hjálp þessa; já, eg hefi enda síed þá mestu hofdíngja, og jafnvel kónginn sjálfann, leida hann til kyrkjunnar. Þó hann blindur væri, kom hann á hvorjum morgni, árla dags, í þann skóla, hvar hinir fullordnu uppfræddir voru, og hann festi dyggiliga í minni þad, sem vinir hans lásu fyrir honum, og vard á þennann hátt mikid kunnugur innihaldi Nýa Testamentisins. Þad er annars verdt ad géta þess, ad þeir innfæddu yfirhofud sýna sig mikid vingjarnliga vid blindt og gamalt fólk, med því ad lesa fyrir þeim úr Ritníngunni þad sem þeir óska; og þad er sú glediligasta sjón, sem madur stundum fær ad sjá í skólum þeirra fullordnu hjá oss; þegar madur, til dæmis, sjer þar eina fróma konu, hjá hvorri sitja 3 edur 4 adrar gamlar konur, og ad hún er þá ad lesa fyrir þeim eitt edur annad dýrmætt efni úr heil. Ritníngu. Stundum sjer madur einn yfirhofdingja, edur hans konu sitja þar, og vera ad gjora þad sama. Stundum sjer madur lítinn pillt edur stúlku, sitja midt á millí gamallra stridsmanna, og þá annadhvort vera ad kénna þeim ad stafa, edur ad lesa fyrir þeim nokkud úr heil. Ritníngu.

Næsta sunnudag eptir þad eg var híngad kominn (skrifar Missíónspresturinn Vilhjálmur), saknadi eg þess gamla Me úr skólanum. Hann var alltid vanur med hjartanligu handabandi ad þakka mér fyrir uppfrædínguna; og sem eg spurdi eptir honum, komst eg ad raun um, ad hann var sjúkur, og lá rétt vid

daudann. Eg gékk þá til hans, og sem eg nálgadist búſtad hans, fann eg hann liggjandi í litlu hreisi, utan til vid íveruhúsid. Þegar eg kom inn, ávarpadi eg hann med þessum ordum: "Það gjörir mér illt, ad hitta ydur í svo aumu ástandi!" Þegar hann þá þekkti roddu mína, braust hann út med þessum ordum: "Erud þér það? er það virkiliga ydar raust, sem eg fæ nú þó einusinni ad heyra, ádur enn eg dey? Æ, nú dey eg þá gladur; eg var hræddur um, ad eg mundi deya, ádur enn þér kjæmud aptur til mín!" Mitt fyrsta spursmál, sem eg spurdi hann ad, var það: hvört ad hann hefdi nokkud matarligt, til ad nærast á? Því á medan fólkid var heidid, var það sidur, ad drepa alla gamla og veika, á grúaligasta hátt, þegar ættingjar þeirra þóktust hafa byrdi af þeim. Undir því yfirskini, ad menn létust ætla ad flytja hann sjúka til ad bada hann (honum til lækningar) í fljóti einu, köstudu menn honum í grifju, sem í þeim tilgángi var búin til, og vörpudu sídan dýngju af grjóti ofan á hann. Jafnvel um tíma, fyrst í stad, eptir ad Kristindómurinn var þar innfærdur, hlutum vid, þegar vid vitjudum sjúkra, ad grennslast nákvæmliga eptir, hvörnig med þá væri farid. Þegar eg nú — sem ádur er sagt — spurdi Me ad: hvört hann hefdi nokkud til ad nærast á? Svaradi hann: ad hann stundum hlyti ad lída mikid húngur. Hvörnig kémur það til, spurdi eg; þér eigid þó gódaun aldingard sjálfur. Já ad vísu, svaradi hann; en þegar eg vard sjúkur, tóku náúngar mínir jördu mína frá mér, svo eg lid í bland stórann skort." Eg spurdi hann þá: hvarfyrir hann hefdi ekki fyrir yfirvaldinu klagad

þetta, edur fyrir einhvorjum þeirra christnu bræðra, sem væru að vitja hans? fékk eg þá það hrærandu svar af honum, að hann sagði: "eg var hræddur um, að fólk mundi þá kalla mig baktalara," og lasta svo, fyrir þá skuld, min nýu trúarbrøgð; þessvegna þeinkti eg með sjálfum mér, að eg vildi heldur líða húngur, og jafnvel deya, enn gefa orsøk til þess." Eg spurði hann þá: hvorjir af bræðrunum væru þeir, sem vitjuðu hans, í hans neyð, til að lesa hjá hon- um, og til að biðjast fyrir með honum? Hann nefndi þá nokkra á nafn, en bætti því við: "æ þeir koma þó ekki svo opt, sem eg vildi, til mín. En eg er samt ekki einn; því Guð sjálfur vitjar min margsinnis. Guð og eg vorum að tala saman, rétt í því þér komuð inn." Eg spurði: nú vel! um hvað voruð þið þá að tala? Eg — ansaði hann — bað um, að eg mætti leysast héðan í burtu, og vera með Christi; því það væri mér miklu betra. Lét eg hann þá á mér heyra: að eg héldi, að sjúkdómur hans mundi leiða hann til dauða, og bað hann því að seigja mér: hvað hann meinti um sjálfann sig fyrir Guðs augliti, og á hvorju hann bygði von sína? Þá svaraði hann: "æ! eg hefi, á þessum morgni, verið staddur í størri sálar ángist; en nú er eg aptur lukkuligur orðinn. Mér vyrðtist sem eg sæi eitt ógnarliga hátt fjall, með ógnar brøttum hlíðum, og eg leitaðist til að klifra upp eptir því; en sem eg var kominn litinn spøl upp á við, hrapaði eg, og féll aptur tilbaka niður. Þegar mér nú fannst, að eg, af ángist og áreynslu, krapta- laus orðinn væri, gékk eg nokkuð afsíðis frá því, setti mig niður og grét; en miðt í því eg var að

gráta, sá eg einn blóddropa falla (frá himnum) niður á fjallið, og rétt í sama bragði hjaðnaði fjallið niður, og varð að alls eingu." Eg æskti nú (seigir presturinn) að heyra sjálfs hans meiníngu um sjón þessa, hvað hún þýða mundi, og eg sagði því til hans: þetta var sannarliga mikið merkilig sjón; en hvörnig leggið þér hana nú út? Hann gaf þá til kynna, að sig furðaði, að eg skyldi vera í nokkrum efa um hennar þýðíngu, og útbrautst því með þessum orðum: "Fjallið, sem eg sá, voru syndir mínar, en blóddropinn, sem féll á það, var einn dropi af Jesú dýrmæta blóði, fyrir hvörs krapt að fjall synda minna hlýtur burtu að bráðna." Eg lét hann þá skilja, að eg væri ánægður yfir því, að hann hefði svo alvarliga tilfinníngu synda sinna, og metti svo stórliga krapt Jesú Christi blóðs, svo þó augu líkama hans blind væru, að hann þó með sinnar sálar augum hefði feingið svo dýrðliga sjón að sjá. Eptir þetta sagði hann mér, að þær prédikanir, sem hann (af mér og öðrum) heyrdt hefði, væri nú sín einka skémtun til að hugsa, miðt í sinni einveru, og sín mesta huggun miðt í allri sinni neyð. Þegar eg nú seinast sagði við hann: að eg vildi bregða mér heim til mín, og tilbúa nokkur lækníismeðöl handa hönum, til að lina sjúkdóm hans, ef mögulígt væri, sagði hann: "eg skal að sönnu taka inn það sem þér seigið mér, en ekki vil eg biðja Guð, að gefa mer mína heilsu aptur, því mín stærsta laungun er nú eptir því, að fá að skiljast hér við, og vera með Christo; því það er mér lángtum betra, enn að vera hér leingur í þessari syndugu veroldu." Þegar eg nú

sídar, eptir þetta, vitjadi hans, fann eg hann alltid lukkuligann og gladann, og fullann af eptirlaungun, ad fá ad koma til síns Frelsara Jesú Christs. Eg var ogsvo hjá hønum þegar hann sáladist, og drog sín sídurstu andartok. Þá heyrdi eg hann frambera morg dýrmæt ord úr heil. Ritníngu; og þegar hann seinast hrópad hafdi med sterkri raustu þessi ord: "O daudi! hvar er nú þinn broddur!" Þá allt í einu misti hann allann málróm, augu hans brustu, hønd hans féll kraptalaus nidur, og hans andi skildi vid hans líkama, til ad vera hjá sínum Frelsara, hvørs einasti einn blóddropi hafdi afmád, og líka sem burtu smellt fjall allra hans synda. Á þennann hátt deydi nú þessi vesælings gamli Me, sem verid hafdi ádur, medan hann heidinn var, forblindadur grimdarfullur stridsmadur á eyunni Rajatea. Eptir þetta skildi eg vid hann, innteкinn og hrærdur af ad sjá uppá þetta merkiliga og dýrmæta sjónarspil, og medan eg þannig burtu gékk, óskadi eg af øllu hjarta, ad mín æfilok mættu verda sem hans!

Ýja dæmi, sem sýnir, hvad Guds ord verkar hjá þeim, sem því rúm géfa: Ádur enn Biblían var prentud í því Ceylonisка túngumáli, tók einn Missíónsprestur, sem vitja vildi eins heidins manns, er sjúkur lá, eitt ark af pappír med sér, á hvørt hann skrifad hafdi útleggíngu þess þridja kapitula úr Jóhannesar Evangelió. Þetta las hann og lagdi út fyrir þeim sjúka, sem fann óseigjanliga huggun fyrir sálu sína. Þegar presturinn ætladi nú burtu, braut hann pappírinn saman, í því áformi ad stinga hønum nidur hjá

sér, en sá sjúki bað hann þá ofurinniliga, að hann mætti halda honum eptir. Þú gétur þó ekki lesið á hann, sagði presturinn; það er að vísu satt, svaraði hinn sjúki; en hann inniheldur þó nokkuð það — eg veit ekki hvað eg á að kalla það — sem mér finnst svo óseiganliga sætt í sálu minni, svo þér meigið ekki taka þetta frá mér; eg kann og líka að fá einhvörja íbland, sem géti lesið það fyrir mér. Sá sjúki héldt svo blöðunum eptir, og presturinn, sem ennnú kom til hans optar, komst að raun um, að hann, útaf þessum litla parti úr Biblíunni, sem inniheldur samtal Christi og Nicódemusar — og heita má með fullum rétti kjarni alls Evangelii — hafði fundið þann rétta veg sáluhjálparinnar, og öðlast síðan þar á eptir sáluhjálpligann dauða. Þó lifði hann eptir þetta svo leingi, að hann aflagt gat skýlausa viðurkénningu og vissann vitnisburð um það, að hann af öllu hjarta hefði ofurseldt sig til að þjóna þeim sanna Guði, og gésa sig undir hans vilja; og svoleiðis andaðist hann þá, miðt í trúarinnar róliga sigurhrósi. Þegar menn nú lyptu líkinu upp úr sænginni, sem hann lá á, fundu menn áðursögð blöð undir höfði hans. Þessvegna, að eins og hann kallað hafði höfði sínu, miðt í dauðanum, að Jóhannesar Evangelii 3ja kapitula, allteins hafði þess heilaga innihald uppfyllt hjarta hans með himneskum krapti.

4ða dæmi, sem sýnir, hvörsu stór synd það sé, að forsóma að boða heiðnum þjóðum Jesú Evangelium. Missíónspréstur nokkur í Afríka — að nafni Shaw — seigir frá því, að þegar hann, skömmu

ádur enn hann ætladi ad reisa í burtu padan, sat og las fyrir nokkrum af þeim innfæddu kapítula úr Bibliunni, þá hafdi einn af höfdíngjum Caffranna borid þar ad og sagt: "O hvarfyrir er þó ekki þad heil. ord allareidu fyrir laungu sídan til vor komid? Hvad er nú ordid af forfedrum vorum, og af svo mørgum af øllum þeim kóngum og furstum, sem dánir eru? Æ! ef þad er satt, sem stendur í bók þessari, — og þér seigid þó sjálfir, ad þad satt sé — hvørt eru þá vorir forfedur hédan farnir, sem nú eru ekki leingur til hér nidri á jørdinni? Æ því komud þér ekki fyrri til vor, til ad boda oss sannleikann!" Þannig mælti madur þessi, og eg má vidurkénna, ad eg skammadist mín inniliga, vegna hinna Kristnu, þegar eg heyrdi þessi hans ord, sem alvarliga á mig tóku; svo eg mátti opinberliga og ærliga vidurkénna, ad þad vissuliga satt væri: ad Drottinn Jesús hefdi skipad lærisveinum sínum, ad þeir taka skyldu sitt blessada ord, og bréida þad út um þá vidu verøldu, en ad þessi hans skipan hefdi um lángann tíma vanrækt verid; en nú á sídari tímum — sagdi eg — eru margir Kristnir ordnir sannfærdir hérum, og vidurkénna ad þessi forsómun hafi synd verid, og eru nú þessvegna teknir til ad útsenda ord lífsins til allra þjóda. Þegar eg nú taladi þessi ord, geitsladi rétt bersýniligur fagnudur fram af andlitum þeirra, sem til mín heyrdu; og einn þeirra lét þánka sína í ljósi, svo seigjandi: "já vissuliga var þad ekki rétt gjørdt af ykkar fólki, ad þar sem þid fundid hofdud þessa himnesku hunángskøku, sem svo yndisliga sæt er, ad sitja þá einir ad henni og neyta hennar, en bjóda ekki ødrum þjódum

ad njóta nokkurs af hennar krapti og sætleika ásamt ydur, þared þó Drottinn hafdi sjálfur sagt, ad hún ætti ad gèfast öllum heiminum, og var líka fullnóg handa öllu mannkyninu. Æ því brutud þèr ekki líka mola af henni, og sendud þá oss og forfedrum vorum, svo þeir og vèr gjætum af þeim nærst, til ad verda saddir og sáluhólpnir?" Þessi voru mannsins ord, sem næsta eptirþánkaverd eru fyrir oss, sem Kristnir kollumst.

5ta frásaga um kristnibodid í Austur-Indíum: árid 1838 var Missiónspresturinn Höberlín frá Calcútta, staddur á kristnibods-hátíd einni, haldinni í Basel í Þýskalandi; útlistadi hann þá, í rædu einni sem hann hèldt, ástand hlutanna í Austur-Indíum, í tilliti þess, hvorsu ágeingt yrdi med kristnibodid. Hann taladi þarum svoleidis: dyrnar standa opnar í Austur-Indíum; þar er forundrunarlig umbreyting skèn á sídstlidnum 20 árum. Þegar þeir fyrstu kristnibodendur fóru þángad hèdan, var þar í mörgum stödum stærsta lífshætta, ad minnast á Jesú nafn; en nú þarf ekki einn kristnibodari leingur ad fara þar huldu höfdi, edur verda þar af öllum forsmádur; hann stendur framar í hættu fyrir ad verda sjálfur tilbedinn. Eg var eittsinn sjálfur haldinn ad vera Jesús Christur. Hvar heldst sem Missiónarinn (edur kristnibodarinn) nú kèmur, þarf hann ekki ad óttast ad bidja um ordrúm til ad tala; heldur þvert á móti hlýtur hann stundum ad draga sig lítt í hlje, til ad fá, um nokkur augnablik, litla mál-hvíld. Á reisum sínum hlýtur hann dag og nótt ad tala um Jesúm. Þetta

vitnar allt um þad, hvørsu Drottinn hefur tekid sig upp til ad hjálpa fólki þessu. Í mørgum landsins hérudum finna menn nú eingin Godahof edur musteri framar; sumstadar eru þau hreint asmád; sumstadar standa þau í eydi, svo reisandi fólk gétur tekid sér þar náttstad inni. Adur voru þar í øllum stórum landsbýum skólar, handa hindúiskum únglingum, til ad uppfrædast í þeirra heidnu trúarbragda lærdómi. Í einum vissum stad, fundust um 40 slíkar lærdóms stiptanir, og í hvørri einni frá 20 til 100 lærisveinar. En nú er þad allt ødruvísi. Eg setti mig opt uidur í forstofum þessara skóla, til ad vita hvad margir þar kæmi, og vard eg var vid adeins 2 edur 3. Nú undirheldur fólkid eingann heidinn prest framar, svo bædi musteri og prestar hverfa þar unnum, hvad af hvørju. Svoleidis geingur þetta til í Bengalen; og þetta er nú ávøgsturinn af því litla Missións-erfidi; þar sýnast má, ad hérum 1 Missiónsprestur millum 5 millióna af Heidingjum, géti ekki miklu áorkad. En Gud gétur gjørdt mikid med litlu; og eitt mustardskorn, þegar því er í trúnni sád, gétur ordid ad stóru tré. Já, þad er merkiligt, ad Heidingjar sumir eru miklu fúsari til ad heyra Guds ord, enn sumir þeir Kristnu hjá oss; þessum er ordid þad himneska Man, leidandi fæda, en hina sumahvørja sárlángar eptir henni. Já, þar eru margir, medal sjálfra þeirra heidnu, sem lángar eptir ødru betra, enn því, sem þeir hafa í tilliti trúarbragdanna; en þeir vogast ekki til ad játa þad og vidurkénna fyrir ødrum. Einn lærdur hindúiskur madur af ædri ræd, sem stód til ad erfa uppá 10 þúsund Gyllini — hvørn

arf hann hlaut að missa, ef hann yrði kristinn — vann það þó til, að sleppa þessari jarðnesku audsvon, til þess að géta hondlað það óshniliga hnossið.

Sú engelska stjórn hefur stiptað þar skóla fyrir innfæddá, í hvorjum að þeir sem eru af ædri rod njóta uppmentunar í evrópiskum visindum; þar finnast og þvilikir skólar, í hvorjum uppmentast 10 til 15 hundruð dreingir. Svo hefur þá, einn trúlyndur Jesú Christs þénari og embættismaður lángtum stærri vændir þess, að sitt erfiði géti, sálunum til sannra nota, ávørt færdt medal Heidíngja í Austur-Indíum, enn hér í Evrópa vída hvar, medal sjálfra þeirra, sem Christnir kallast. Og þó hann ætti von á að verða skammlífari í Indíalandi, en heima, er þó ár þar, lifað í Drottins erindum, betra enn 10 ár hér; og Missíónspréstur sá, sem um þetta ritað hefur, seigist, fyrir sína persónu, ekki vilja — vegna þess andliga ábata og ávagstar — vinna til að skipta sínu kalli í Indíunum fyrir nokkurt einasta eitt þeirra hér í Evropu verandi presta; hvor orð hans sýna, hvorn ábatann hann mest metur, þann andliga edur líkamliga, því þau jarðnesku embættislaun slíkra Missíónspresta sumra hvorra eru svo sára litil, að þau færstu presta-köll, hér í norðurálfu heimsins, hafa þau eins litil og óviss; en sá andligi arðurinn þvert á móti, nefnilega sá: að ávinna sálir Guði til handa, er í Austur-Indíum, og vidar annarstaðar medal Heidíngja tíufuldt meiri og vissari. Ekki er þetta nú samt svo að skilja, sem allir heidíngjar í þeim londum taki viljugir móti kristinni trú. Nei, sumir setja sig ákaft móti henni, en hrædast hana þó. Þeir álita hana

eins og eitt ógnarligt þrumuský, er samandragist yfir hofdi þeirra og sem þeir óttast, ad muni í hel slá sig. Þeir seigja: eg vil bera mig ad vara sjálfann mig vid kristindóminum, enda þó børn mín hljóti kristin ad verda. Sumar mædur géfa børnum sínum inn eitur; annadhvort til ad drepa þau, eda gjøra þau ad vitfyrringum, til þess ad forda því, ad þau géti kristin ordid; og eg sjálfur — seigir Missíóns-prestutinn — hefi nokkur þau børn í mínu húsi, sem ordin eru vitfyrringar af eitri. Hvílíkann krapt hefur Guds orda kénning í hjørtum þessa fólks, ad hún annadhvort fyllir þad med ótta og skélfingu, edur hreint umvendir því. Hvert á móti heyra þeir kristnu hjá oss Guds ord med kaldlyndi og hálfvelgju margur hvør, án þess þad vakid géti hjá þeim nokkurn ótta fyrir Guds reidi, út af syndum sínum, því sídur full-komliga umvendt þeim. Gud nádi þad og betri!

6ta dæmi. Ein chinesisk kona, sem leingi hafdi lífad í trúarbrøgdum Confúsíusar (hvor drottnandi eru í China), en var af einum Missíónspresti um-vendt til kristiligrar trúar, og átti nú heima á einni af þeim nidurlendsku eyum hjá Asíu, hún sagdi á sinni sóttarsæng til konu Missíónsprestsins, sem spurdi hana ad: hvort hún ekki væri hrædd ad deya? "O ney! svaradi hún, eg óttast nú ekkert framar, og ekki daudann sjálfann; því eg veit, á hvørn eg hefi trúad, og ad minn Frelsari (Jesús) hefur makt til ad fyrir-géfa mér allar mínar syndir!" Þá sømu nóttu, sem hún sáladist, sagdi hún: "Nú finn eg, ad eg er for-líkt vid Gud, og Guds fridur er úthelltur í mína

sálu!" Skømmu þar á eptir kalladi hún á þá til sín, sem vakad høfdu hjá henni, og sagdi vid þá: "Nú meigid þid leggja ykkur útaf ad sofa, þvi eg geing nú ogsvo til minnar hvíldar." Og þá hún hafdi þetta sagt, sofnadi hún sætliga í Drottni.

7da dæmi. Einn chínesiskur madur, hvørjum einn hans kristinn landsmadur umvendt hafdi, taladi þarum á fylgjandi hátt: "minn bródir sagdi mér, ad þó minar syndir væru svo þúngar og stórar, sem þau hæstu fjøll, þá samt, ef eg gjerdi sanna ydrun, og setti mitt traust á Jesúm Christum, heimsins frelsara, þá gjæti eg feingid fullkomna fyrirgéfningu á þeim øllum saman, og eilifa blessun, í ødrum heimi. Eg hneigdi þessvegna mitt hjarta til Jesú og trúdi á hann, tók sídan á móti þeirri heiløgu skýrn, og bad hann heil. anda ad planta rót helgunarinnar í hjarta minu."

8da dæmi. Einn umvendtur heidinn madur frá Afrika lýsti svoleidis sinum andligu tilfinningum: "þar er ekkert í ollu Evangelio, sagdi hann, sem eins hefur tekid á mig, ad hugsa um, sem þessi ord og bodskapur: Gud er kjærleikurinn! Þegar eg heyrdi þessi ord, uppfylltist hjarta mitt af óseigjanligri gledi, svo eg fór strags til, og sundurbraut øll min afguda bilæti."

9da dæmi. Í einum tartariskum landsbý, hvar kristnibodsprestar nokkrir frá Basel hafa feingid ad setjast ad, deydi fyrir fám árum lidnum einn mahóme-

taniskur madur, af ædri rod. Eftir sidvenju Mahóme-tanískra, sofnudust ættingjar hans saman vid hans sóttarsæng, og heimtudu af þeim deyanda, ad hann ennnú einusinni skyldi framseigja sína trúarjátningu, til þess hann þarmed gjæti gjordt sig fullkomliga vissann um sína sáluhjálp. Hann útbrautst þá med hátídligri raustu og sagdi: "Þar er alleinasta einn Gud, og Jesús er hans spámadur!" Þeir sem í kríng stódu, urdu skélsdir, og heldu ad hann taladi af órádi. Þeir bádu hann þá med grátandi tárum, ad lesa rétt og framseigja sína trúarjátníngu, þar hann annars ekki eptirskildi annad enn spott og skømm ættingjum sínum og áhángendum. Hann ítrekadi þá aptur, og þad enn-nú alvarligar enn ádur, þau somu ord, og bætti hér-umbil þessum vid: uppá þessa trú ætla eg mér ad deya, þvi eg er fyrir laungu ordinn sannfærdur um: þar er ekki frelsi í neinum ødrum, enn Jesú Christo, (og ad Mahómet er einginn sannur Guds spámadur. Og þér erud søk í því, ad eg ekki fyrri hefi vidur-kennt þessa mína trú, hvorja eg vildi óska, ad øll veroldin hefdi; en nú kann eg ekki leingur ad halda þessari minni játníngu tilbaka, hvorjar afleidíngar sem af því fyrir ydur skjóta vilja; og, ad þessum ordum tøludum, sáladist hann.

10da dæmi. Fyrir hérum 10 árum lidnum (edur nálægt 1830) var ein tyrknesk kona í Egypta-landi umvendt til kristiligrar trúar. Hennar fráfall frá þeirri mahómetanisku trú kom fyrst upp af því,

að hún giptist hafði einum kristnum manni. Henni og manni hennar var þessvegna báðum stefnt fyrir rétt, og þeir reiðu dómendur sögðu henni hreint út, að hún ekki á nokkurn hátt frelsast gæti frá einum skélfiligum dauddaga, nema með því móti, að hún á sama augnabliki geingi aptur á þá mahómetanisku trú. En hún færðist undan því, með sönnu stöðuglyndi. Konan var síðan dæmd til að drekkjast, en maðurinn til að brennast á báli. Þá þetta framkvæmast átti, þusti þar að mesti fjöldi fólks; og svo var konan flutt á skipi útá fljótið Níl. Buðu menn henni þá aptur og aptur að fá líf, með þeim kostum, að hún geingi aptur á tyrkneska trú, en hún héldt óbráviklanliga fast við þá kristnu trú, er hún tekið hafði; var svo bundinn steinn um háls hennar, og síðan lét hún með hugbreysti steypa sér niður í fljótsins afgrunn. En maður hennar var ekki svo hugbraustur, sem hún. Því þegar hann sá bálið, á hvörju hann brennast átti, greip hann mesta dauðans ángist og hræðsla, svo hann hrópaði upp og sagði: þar er alleinasta einn Guð, og Mahómet er hans spámaður! Og með þessu móti fékk hann líf.

11ta dæmi af einum kristnuðum heiðnum manni, sem sýnir: hvörnig maður á að lesa heil. Ritningu réttiliga, svo það verði Guði til dýrðar, og manni sjálfum til sálarnota.

Einn Biblíufélagsins umboðsmaður skrifar frá Jamaika á þennann hátt: "Eg heimsókti í dag einn

gamlann Negra, 107 ára ad aldri, hvors ullmjúka hár var alhvitt af hærum. Hann hafdi fyrir eitt ógjæfu tilfelli ordid krypplingur, en sjón hans hafdi þó med aldrinum ekkert sljófgast. Þegar eg kom til hans, var hann ad lesa í Biblíunni, sem honum hafdi af Biblíufélaginu géfin verid. Hann sagdi þá til mín: "Sá sem gaf mér þessa Biblíu, hann gaf mér lífid. Eg bid fyrir honum af øllu hjarta til Guds. Hún er mín einasta huggun í eymd minni. Eg fer svoleidis ad því: fyrst les eg med allri audmýkt einn kapitula í henni, og þá svoleidis talar Gud vid mig; sídan læt eg bókina aptur, þar á eptir fer eg med hjartanligri bæn ad tala vid Gud."

O ad allir, sem Bibliuna eiga, brúkudu hana svoleidis! hvílík blessan mundi þá af hennar eign og brúkun standa!

12ta dæmi, sem sýnir hvílíkur blessunar ávøgstur géti flotid af sameiginligri bæn sanntrúadra manna, fyrir umvendun annara, og hvørsu hann géti sig stundum í ljósi látid.

Einn Missiónæri frá Ameríka, sem var í Austur-Indíum, skrifar í einu bréfi heim til sín á þennann hátt: "Hvad ætli þeir Kristnu, heima hjá sér, hafi tekid sér fyrir hendur ad gjøra, þann 1ta mánudag í Janúar mánudi sídarst? Því þegar eg, á sama deigi, kom hér inn í Missións-skólann, komu á móti mér 12 til 14 persónur, sem søgdu í einu hljódi: "nú erum vid reidubúin til ad géfa Jesú vor hjørtu!" og fleiri

þessháttar glediligustu ord framtøludu þessar persónur fyrir oss.

Nú sem þessi Missiónæri fékk fregn um þad, og sídar skrifliga ávísan, ad heiman: ad á þessum sama deigi hefdi heima í Ameríka haldinn verid hátídligur bænadagur til ad bidja Gud um umvendun veraldarinnar, þá sagdi hann: "Nú skil eg hvørnig þetta kom til, ad sagdar persónur voru svo fúsar á ad gefa Jesú sín hjørtu." Því hann þekkti gjørla, hvílíkt samheingi þar er á milli bæna þeirra sanntrúudu og blessunarinnar frá Gudi; þar Gud hefur lofad ad bænheyra alla þá, sem hann í sannri og lifandi trú ákalla; einkum þegar þeir bidja um þær andligu gáfur, fyrir sig og adra. O, látum oss þennann dýrmæta sannleika alvarliga hugfesta, og hann oss trúliga, oss sjálfum og ødrum til blessunar, í nyt færa! O, gefi Gud ad svo verdi, í Jesú nafni!

---

☞ Evangeliskt Smárit, frá byrjun Nr. 69, eru ad fá í Reykjavík, í Flatey á Breidafirdi, á Eyafirdi og á Reidarfirdi gefins þeim, sem taka þar vid þeim sjálfir, en þeir sem þurfa ad sendq þau edur flytja, meiga taka 1 ß., undir 1 ark, hjá þeim, sem þeir færa þau, ef vilja.

---

Kaupmannahøfn 1850. Prentad hjá S. L. Møller.